IV. Æfisaga

Jón Borgfirðingur.

# Valgerdar Þorgeirsdóttur

Ektaqvinnu

Klausturhaldara

# Páls Jónssonar.





Leirárgørdum vid Leirá, 1799.
Prentud af Factóri og Bókþryckjara
G. J. Schagfjord.
á kostnad Klausturhaldarans.

# Æfisagan.

Valgérdur sál. Þorgeirsdóttir er fædd í þennann heim ad Arnardránga í Vestur-Skaptafellssýslu, þann 4da Aug. 1735. Heñar foreldrar vóru þna heidursverdu og ad gódgjørdum alþecktu hjón, Þorgeir Oddsson og Sigrídur Olafsdóttir, er hofdu kyn sitt ad rekja til Høfdíngja og heidurlegs fólks í marga lidu. Þessir hennar gódfrægu foreldrar létu sér annt um ad innplanta hana því sama lífsins tré Kristó fyrir heilaga skírn. Í sinna foreldra húsi uppólst sál.

Valgérdur til 26ta aldurs árs, var þad alræmi, ad færri mundu þær bónda-dætur, er betur væru ad sér til munns og handa, enn vor nú sál. Valgérdur, bar hún og lángt af systkynum sínum og jafnøldrum, bædi í gudvísi og bú-skapar hyggni, og var hún kallad-ur hinn besti qvennkostur austur þar, því dygdir og mann-gædska vóru henni samfara.

Arid 1761 á Valgérdar sál. 26ta aldurs ári, inngéck hún, ad rádi Guds og foreldra sinna ljúf-um vilja, heilagann ektaskap med hér nálægum gøfugum Høfdíngs-manni Sgr. Páli Jónssyni; reistu þau fyrst bú á Hrauni í Land-broti, og bjuggu þar 13 ár.

Arid 1774 fluttu þau búferl-
un ad Hørgslandi, hvar þau í
samfeld 10 ár, edur til vordaga
1784, vóru Hospítals Forstandarar,
en viku þadan hid sama sumar,
vegna þess óttalega jardelds, er þá
yfirgeysadi mikinn hluta Vestur-
Skaptafells-sýslu, vestur til Sel-
tjarnar-ness, hvar þau vóru 2 ár.

Arid 1786 tók Sgr. **Páll** ad
sér, eptir Háyfirvaldanna tilhlutun,
Forstødu vid Hospítalid hér á **Gufu-
nesi**, sem hann hardtnær í 7 ár
hefir sómasamlega og vidkomendum
til ánægju framid.

Þessara gódu hjóna ekta-sæng
blessadi Gud med 4 vilt-børnum,
af hverjum einn þeirra deydi á 7da

 ári;

ári; en hina 3 settu þau til bókmenta í Stiptisins Látínu-skóla, nefnilega: Þorgeir, Stúdent utanlands, Olaf, nú Prest til Ása í Skaptártúngu og Ásgrím Capellan að Helgafelli.

Árið 1779 var **Valgérður** sál. eptir undirlagi Prófastsins Hra. J. Steingrímssonar og Hra. Sýslumanns **Lýðs Guðmundarsonar**, yfirheyrð í Yfirsetu-qvenna fræðum, af þeim lærða Land-lækni Hra. **B. Pálssyni**, sem áleit hana hæfilega yfirsetu-konu í Vestur-Skaptafells-sýslu, hvörju verki hún þjónaði með dygð og heiðri, og var ljós-móðir til nálægt 100 barna, vóru þau fátæklinga børn ei allfá, er hún ókeypis tók af foreldrunum

svo

svo hálfum og heilum mánudum og missirum skipti. Líka tók hun til fósturs fødur- og módur-laus børn, auk þeirra, sem forsvar høfdu, og hefir þau sømu svo umhyggjusamlega uppalid, frædt og til góds áminnt, svo lengi henni fjør endtist, sem sín egin lífs afqvæmi. Var þad og sannast ad segja, ad hennar elskadi Ektamadur bar hana aldrei ofurráda af neinu gódu, er hún vildi audsýna þurfandi fátæklíngum, því hann fann ætíd athafnir hennar stjórnast af skynseminni, og þessvegna mida þeim sjálfum til sóma og ødrum til gagns. Sál. **Dalgérdur** var, yfir høfud ad segja, gudhrædd, dygdug, trúføst, ydin, þrifin, stjórnsøm, frómlynd og gódgjørdasøm, einkum vid þurfandi og

fá-

fátæka. Hún var síns Ektamanns æra, hússins prýdi, sveitar sómi og nú margra harmdaudi; vona eg ad engum, sem hana þeckti, þyki eg hérum of-frekt mælt hafa.

Hvad hennar lífs útgaungu vidvíkur, sýnist oddviti þar til byrjad hafa árid 1780, med brjóstverki, sem æ sídan hefir af og til vaxandi farid, auk þess hún, árid 1772, héldt nær því heilt ár vid rúmid af gulu-sótt. A næstlidnu sumri tók hana sú strída taksótt, sem um þær mundir svipti marga lífinu, en fyrir Guds hjálp, viturleg rád og náqvæmustu atburdi Hra. Sveins Pálssonar, lét þessi tak-verkur þá svo undan, ad henni audnadist lífi ad halda og fótaferd ad ná, en hefir

hefir þó að ødruhvorju aflidinn vet-
ur, haft snert af honum svo dægr-
um skipti, með óvenjulegum hjart-
slætti þess á milli.

Nærstlidinn 21ta Apr. greip
hana þessi sami takverkur um pré-
dikun hér í kirkjunni, sem fór æ
vaxandi, í hvorju enu þúngbærasta
sjúkdóms erfidi hún átti til þess að
morgni þess 25ta s. m., þá henni
hægdi svo mikid, fyrir líkn Guds,
samt svo viturlega, sem náqvæma
vidleitni Hra. Sveins Pálssonar,
að hún þoldi af sér að bera, hægdi
henni meir og meir, uns náttúr-
lega af henni dró krapta og fjør,
og hún um sólarlags-bil þann 26
Apr., sem var Kongs-bænadagur
og Føstudagur fyrstur í sumri, með

fullri rænu fól sinn anda í Frelsarans höndur, á hennar 58da aldurs ári, en hafdi lifad í heiløgum ektaskap nærstum 32 ár.

Gudi sé lof! sem hana luckulega í heiminn innleiddi, mørgum til gagns og gledi, farsællega um heiminn framleiddi, og loksins sáluhjálplega frá heiminum útleiddi!

Nú, Gud veri huggun og athvarf hennar eptirþreyandi elskulega ektamanns, egin- og fósturbarna, samt sérhvørs saknandi!

---

# Grafskrift.

Kristur er mitt líf
Og dauðinn minn ábati.
Minnst þessa góður maður, hvørr sem ert,
Við hér nálægt
Lífs og dauða mið og minnis-teikn,
Og við síðasta hvíldar-stað
Þeirrar í lífinu
Dygðeðla góðfrægu og guðelskandi
Høfðings-qvinnu
Madame
Valgérðar Þorgeirsdóttur,
Hvør eð farsællega sá ljós þessa heims
Á því 35ta ári þessarar aldar
Og síðan
Eptir dygðugt og heiðurlegt æsku-blóm
Inngéck heilagt hjónaband

Med Klausturhaldaranum
Sgr. Páli Jónssyni
Med hvørjum hún sídan lifdi,
J réttri ást og ekta kjærleika.
Bædi í medlæti og mótlæti
J tæp 32 ár
Undir dásamlegri Guds forsjón,
Blessun og Vardveitslu
Og vard fjøgra barna módir.
En nú loks
Þá er hún lifad hafdi 8 vetur hins 6 tugar;
Sødd af þessu stundlega lifi
Og sár-þyrst eptir þvi eilífa,
deydi sætlega í Drottni
Þann 26ta Aprílis 1793.
Gángid þvi hér til leidis Hennar.
Þér Hennar nærsti ástvin
Og eptirlátinn Eckjumadur
Og harmid
Burtnumda frá ydar høfdi
Ydar fagra høfud-prýdi
Einn ástkjærann Ektamaka.
Kórónu

Kórónu ydar yndis
Hjálp og stod ydar húss
Helming ydar hjarta.
Harmid þér
Eptirþreyjandi æruverdu Synir
Eina dygdaríka og elskulega módur,
Yndi og styrk ydar úngdóms
Hjálp og stod ydar æsku
Og allrabesta ástvin.
Harmi þetta góda heimili,
Og þar inni bædi úngir og gamlir
Góda, dygdaríka og eptirláta húsmódur
Daglega hjúkandi hønd.
Harmid þér
Gódar qvinnur og gudhræddar,
Því þar fór ein úr ydar flocki
Full dygda og kjærleiks-verka
Þar féll Gimsteinn úr ydar kransi
Sómi ydar kyns
Margra meina bót.
Harmid þér gódir menn og frómir.
Saknid þér frómleika og rádvendnis

Harmid aumir og voladir
Hvarf ydur þar góð hjálp, sem Hún var.
Hörmum vér,
En þó kristilega og í hófi
Þvi þetta er Guds vilji.
Af því hann elskadi Hana
Þá tók hann Hana til sín
Ur heiminum í himininn
Ur eymdunum í sæluna
Ur útlegdinni í fødurlandid.
Ur þrælkun í frelsid
Frá myrkrunum til ljóssins
Ur daudanum til lífsins
Því Hún er ei daud heldur sefur Hún
Lifir Hún nú einu betra lifi
Þvi yndælasta lífi
Lifir eilífu lífi
Hjá lifanda Gudi á landi lifendra
Lifir Hennar lofsæl minning í heiminum
Til fegurstu dygda-dæma
Hjá þeim gódu og gudhræddu
Hjá børnum og ástvinum

Til fagnadar-funda á fegins degi.
En líkaminn hvílir sætt og rólega í sinni
Módur-skauti
Bídandi sømu sælu og unadar
J upprisu réttlátra
P. J.

# Hreysti-tølur
## lidins Astvinar til hins Eptirþreyjanda.

1.

Hvad er þad, hjartad góda!
Harmar springa í huga þínum?
Gledin þar gnæsa ætti
Og grátur sá gánga úr ranni.

2.

Fagna ættir þú feginn gráti
Føgnud' þeim, eg fengid hefi,

Undir

Undir þú við ærið minna,
Þorfan mér í heims andstreymi.

3.

Manstu brautir mín og þínar,
Mædulag og gæfu-daga,
Var hið sæta súru blandað;
Sá var leiðsla Guðs í heimi.

4.

Settum bú með bragði litlu,
Blessan Guðs þar með fylgði,
Sendi hann björg með barni hvörju,
Blómi stóð á Goðalandi.

5.

Attum gnótt og gæðsku í búi,
Grúa fjár og sképnur nógar,
Laufgræn eign, akra og liljur,
Ærinn plóg, vistir nógar.

6.

Stutt var blóm, stöpul lucka,
Skéðu bysn, ógn og undur,

Fold-

Foldin skalf, fjøllin titra,
Elda-hraun sem elfur geysa.

7.

Daud láu fé í dølum uppi;
Flúdu lýdir af fødurleifdum,
Vegi óvissa í vandrædum,
Hraknings-bjálkar ei hæli fengu.

8.

Biladi' ei þinn í brjósti hugur,
Angur var ei á karli,
Eign þótt alla mistum,
Og ei vist nema eymd og daudi.

9.

Lengdu margir líf á heyi,
Skáru þad og graut sér gjørdu;
Brá í brún bændum ádur,
Er hvørgi brast hølda í búi.

10.

Hreysti þá vid høfdum bædi
Ut ad standa allar þrautir,

Stad uns numum vid strandir þessar,
Og stundudum ad stilla vgndrædi.

II.

Hali var hellst ofláungur
Ockar þá um ad sveyma,
Bárumst fyrir í bænda hreysum
Og sjó-búdir sætar urdu.

12.

Adrir þá aptur hroktust
Á austur-leid, er eldar dóu,
Fundu bísn í bruna-hraunum,
Ovegu stóra og gresi.

13.

Hræddumst vid ad hverfa aptur,
Syndust ecki sogur fagrar.
Ætla eg hér, Ástvin besti!
Skilnad settann og skapa-dægur.

14.

Hepptu sorg! Herrans vilji
Bestur er bádum ockur;

Ald-

Aldrei fyrr ádur skedi
Ad grétir þú af gledi minni.

15.

Hvar er nú hreystin forna?
Og elska blíd aldnu minnar?
Sálar frid og sætann dauda,
Vedst eg tel af öllu gódu.

16.

Fagra gaf Forsjón blída
Ferdina mér í fódurlandid;
Fylgdar-lid fylking Engla,
Sigur-hrós og sælu dýra.

17.

Uti er stríd, unninn sigur,
Perrud tár, þrotin mæda,
Ljómar sál sólu fegri,
Lífsins med ljósum vafin.

18.

Brúdar-skart skín hid hvíta,
Ljómar bjert lífs kóróna,

Dírdar - sal dýrstum himna;
Er enginn kann út ad skíra.

19.

Gladur bíd, Gudi þacka!
Frelsi mitt og fengna sælu;
Somu hönd senn mun gésa
Einnig þér á óska fundi.

20.

Ea þig qved, Ástvin besti!
Og alla þá mér unnu í heimi!
Ædsta traust og athvarf besta,
Æ se Gud í dauda og lífi!

P. J.

Vels



Velforþént

# Erumínníng

eptir þá í lífinu

Gud og gódar dygdir rækjandi,

## Mad. Valgerdi Þorgeirsdóttur

er fæddist í þennann heim
ad Arnardránga í Vestur-Skaptafells-
sýslu, þann 4da Aug. 1735,
giptist Klausturhaldara

## Sgr. Páli Jónssyni

árid 1761,
og andadist ad Gufunesi í Kjósar-sýslu
þann 26ta Apr. 1793.

---

Lagid er: Sólin til fjalla fljótt.

1.

Æran dygdinni eins,
Aheing er gæfu-sæl,
Hond eina, sem ad sveins,
Sins bródurs spennti hæl;
Sem glansi sól fylgir,
Sem birta deginum,
Hvád sannur Gud sámtengir,
Sæti ei fjárlægdum.

2.

Avalt þó undan fer
Brunni dygdin gód,
Hún módir hinnar er,
Hvorttveggja gudleg jód;
Hann verkar voldugur,
Viljann og gjorningin,
Metur miskunsamur
Manndygda ferilinn.

3.

Rómverjar rádsnjallir,
Reistu tvo portin dýr,
Hid fremra dygd eignad er,
Æran í hinu býr;
Þar med teiknandi þad:
Þeir dygda seta' um port,
Þeim hnígur æran ad,
Ei sá vegsemdar skort.

4.

Dygdin er dóttir Guds,
Dýr hugar lagnadur,
Orkar andar fögnuds,
Innvortis metnadur,
Ad þykjast of-vaxinn,
Adhafast þad ljótt er,
En geyma vel Guds ordin
Og gjöra hvad vel sómer.

5.

Er hennar augna-mid,
Elska til Skaparans,

Kala-

Kalalaust keppist vid
Kjærleika náúngans;
Fylgjandi forsjálni,
Fadmandi réttvísi,
Hyllandi hóssemi,
Hrósandi güdrækni.

6.

Hér eptir æran ser,
Eilif og tímanleg,
Sína dygd sá uppsker,
Er sádi' henni á lífsins veg,
Hundradfaldt hljóta þeir
Hvert dygda blóm fyrir,
Aldrei því dygdin deyr
Enn dvína' hennar ávextir.

7.

Eitt dæmi er til rétt,
Æru og qvenndygdar,
Oss fyrir sjónir sett,
Sálugu Valgérdar,

Þorgeirsdóttur, er þær
Þrástunda nádi hér
Gudlegar gáfur tvær,
Gledina því uppskér.

8.

Af frómleiks ættum er
Upprunnin, sídan ljóst
Laugud, sem Kristi kér,
Kjørin strax á hans brjóst;
Síra' Einar samdi þad
Sonur Hálfdánar best,
Fengu' hennar foreldrar
Frídann í húsid gést.

9.

Í Guds ótta' og gódum sid
Glansadi þetta blóm,
Haldandi hreinleik vid
Hæverskann Jómfrúr-dóm,
Tvenn þrettán talin ár,
Trúlofast nádi þá

Þessi qvennkostur klár,
Kjorgipting nádi fá.

10.

Yndælust ellistod,
Adur foreldrum var,
Gudfrædis gódu bod,
Gljúpu í hjarta bar,
Flestum vel fródari,
Í Frelsarans rædunum,
Og ødrum árvakrari,
Í dygda frædunum.

11.

Fyrirbón foreldra,
Farsældir Henni jók,
Giptist svo gudlega,
Gódmenni ad sér tók,
Pál Jónsson prúdann mann,
Prís báru hjónin snart,
Fylgdi þeim rausn í rann,
Rómadist ordspor bjart.

12.

Fjóra þau sveina af sér,
Svo gátu ektabands,
Hvorra einn hafiun er,
Heim til vors födurlands,
Tveir Prestar Herrans hér,
Hinn fjórdi stúderar,
Grannt þar af gloggum vér,
Góð merki roksemdar.

13.

J sanna umsjón og náð,
Sjo fósturs tóku born,
Munadarlaus uin láð,
Léntu þeim nærslu og vorn;
Morg hér til manndygda,
Og medaumkunar atlot,
Enn mætti upptelja,
A sliku var ei þrot.

14.

Spítala tveggja trú,
Tilsjón þeim falin var,

Velfarnast vann þeim sú,
Virdíngar þad frambar;
Horfdi til heidurs flest,
Hjartagædskan. þad vann,
Veikum bjørgudu best,
Borgar þad Gud og mann.

15.

Elds fyrir ógnunum,
Austurlands frá sídu,
Líkt eins og Loth fordum,
Til líknar burt flýdu,
Á Seltjarnar- settust -nes,
Til sæmdar og gagnsmuna,
Nádu fremdar og fles
Farsældum daglega.

16.

Vor sæla systir var,
Sett tal ljósmædra í,
Vel þad embætti bar,
Bjargvættur gjordist því,

Her

Hér um hundrad qvenna,
Hjúkrandi börnum þeim,
Mörg tók til mannelda,
Med sér flytjandi heim.

17.

Kirkjunnar Kristí blóm,
Kóróna ektamanns,
I hússtjórn og hondlun fróm,
Hjálpari aumíngjans;
Afqvæma yndi og ljós,
Almúgans spegill klár,
Sannkolluð sveitar rós,
Soknudur er því dár.

18.

Gudhrædd og Gestrisin,
Góðra vitsmuna fjád,
Haldin-ord, hreinskilin,
Heilnæm leggjandi ráð,
Stjórnsom med stillíngu,
Strídði vel mædum í,

Fjád af Guds fyllingu,
Fjøldi' Hana fyrgir Þvi.

19.

Hallandi hlaupi lífs,
Heilsuveikindi bar,
Umleid án alls kífs,
Ædi margsslags þó var,
Gulu-sótt, Brjóstverks bøl,
Beiskur Takverkur þó,
Med Hjartslætti, himnska spøl,
Hennar æfi framdró.

20.

Samt undir seinsta blund,
Sjúkleikans hægdir fèck,
Drógst svo ad dauda-stund,
I Drottni burtu gèck,
Med rænu og ráddeildum,
Rèttlátra verdlaun hlaut,
Sæt, ad sumarmálum
Sinnar þá dygdar naut.

21.

Eran Guds eilífa,
Era Guds hátign lík,
Sveipar nú sálina,
Sjest hefir engin slík;
Heyrðu ei eyru á
Yndæli þvílíkt hér,
Þeim himins heillum ná.
Hjálpi Gud mér og þér!